# Tímarit

Þjóðræknisfélags Íslendinga

XX. ÁR

WINNIPEG, MANITOBA







# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

### XX. Árgangur

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megna að íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.
2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.
3. Að efla samúð og samvinnu meðal íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra er þetta land byggja.

Aðrar upplýsingar um félagið veitir "Félagsstjórnin," og má skrifa til hennar. Inngangseyrir og ársgjöld sendist "Fjármálaritara," en áskriftargjald að Tímaritinu "Skjalaverði."

**Þjóðræknisfélag íslendinga í Vesturheimi**
Winnipeg, Manitoba.

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1937-8

**A. Heiðursfélagar**

Próf. Árni Pálsson, Reykjavík, Ísland

Próf. Sig. Nordal, Ph. D., Reykjavík, Ísland

Jóhannes Jósefsson, Reykjavík, Ísland

Ragnar E. Kvaran, Skrifstofustjóri, Reykjavík, Ísland

Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld, Winnipeg, Man.

J. Magnús Bjarnason, rith. Elfros, Sask.

Próf. Halld. Hermannsson, Ithaca, N. Y., U.S.A.

Dr. Vilhj. Stefánsson, New York, N. Y., U.S.A.

Friðrik Swanson, málari, Winnipeg, Man.

Mrs. Jakobína Johnson, Skáldkona, Seattle, Wash.

G. J. Guttormsson, skáld Riverton, Man.

Prof. F. S. Cawley, Ph.D. Harvard University, Cambridge, Mass.

Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y., U.S.A.

Prof. Watson Kirkconnell, Wesley College, Winnipeg, Man.

Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D. Melbourne, Ástralía

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, Winnipeg, Man.

**B. Æfifélagar**

Þorgils Þorgeirsson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, málari, Winnipeg, Man.

**C. Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Einar Gunnlaugsson, Stóra Sandfelli, Skriðdal um Reyðarfj.

Björg E. Johnson Reykjavík

Jónas Jónasson, Reykjavík

Frú Jóhanna Jónasson, Reykjavík

Júlíus Jónsson, Reykjavík

Dr. Ófeigur Ófeigsson, Reykjavík

Frú Margrét Guðmundsd., Reykjavík

Sr. Friðrik Hallgrímsson, Dómkirkjuprestur, Reykjavík

Frk. Halldóra Bjarnad., Reykjavík

Frú Josephina Jóhannsson, Reykjavík

Halldóra Sigurjónsson, Reykjavík

Jónas Thordarson, Akureyri

Sr. Benjam. Kristjánsson, Syðra Laugalandi, Eyjafjarðarsýslu.

Sr. Friðrik A. Friðriksson, Húsavík, S.-Þing.sýsla

Hjúkrunarkona Ingibjörg Sveinsson, Landsspítalinn, Reykjavík

Stefán Vagnsson, Hjaltastöðum, Skagafjarðarsýsla

**2. Canada**

**Alameda, Sask.**

Hjörtur Bergsteinsson

**Arborg, Man.**

Björn Árnason

Björn G. Anderson

Steindór Árnason
J. Bergmann
P. K. Bjarnason
Dr. S. E. Björnsson
Hjálmur Danielsson
Mrs. Hólmfr. Daníelsson
Einar Einarsson
G. O. Einarsson
Finnbogi Finnbogason
Hermann Fjeldsted
Thor. Fjeldsted
Böðvar H. Jakobsson
Mrs. Guðlaug Jakobsson
Helgi B. Jakobsson
Eiríkur Jóhannsson
Mrs. Andrea Johnson
Miss Sella Johnson
Marteinn M. Jónasson
Guðmundur Magnússon
Sr. Sigurður Ólafsson
Jóh. Pétursson
Mrs. Jóh. Pétursson
Arthur Sigurðsson
Magnús Sigurðsson
Gunnar Sæmundsson
Jakob Thorsteinsson

**Arnes, Man.**

Mrs. Anna H. Helgason
Ísleifur Helgason
Mrs. Guðrún Jónsson
Ólafur Jónasson
Jónas Ólafsson

**Baldur, Man.**

J. K. Sigurðsson
Björgúlfur Sveinsson

**Benalto, Alta.**

Jóhann M. Hillman

**Calgary, Alta.**

Sigurður Sigurðsson
Jóhann Bjarnason

**Cranberry Lake, B. C.**

Jón Sigurðsson

**Cypress River, Man.**

L. J. Hallgrímsson

**Edmonton, Alta.**

Mrs. G. Benedictson
S. Guðmundsson

**Elfros, Sask.**

Mrs. J. Magnús Bjarnason
Jón Jóhannesson
Axel Jónasson
J. H. Goodmundson

**Eriksdale, Man.**

Kristján Halldórsson
Ólafur Hallson

**Fawcett, Alta.**

Guðmundur Björnsson

**Geysir, Man.**

Miss Margrét Bjarnason
Einar Benjamínsson
Timoteus Böðvarsson
Mrs. Timóteus Böðvarsson
S. P. Friðriksson
Friðrik Sigurðsson
J. G. Skúlason

**Gimli, Man.**

Mrs. Christiana O. L. Chiswell
Séra Bjarni A. Bjarnason
Mrs. B. A. Bjarnason
Friðfinnur Einarsson
Guðmundur Fjeldsted
Freeman Freemanson
Jón Guðmundsson
Grímur S. Grímsson
Mrs. Ásdís Hinriksson
Baldur M. Jónasson
Lestrarfélagið "Gimli"
Mrs. Kristín Schram
Sigurður Sigurðsson
Guðni Thorsteinsson
Hjálmur Thorsteinsson
Thordur Thordarson

**Glenboro, Man.**

Guðrún Anderson
Páll A. Anderson
Sigurður Antoníusson
Sr. Egill H. Fáfnis

Jón Goodman
F. Frederickson
Jón Frederickson
Jón Helgason
Mrs.Kristjana Jóhannsson
Hans Jónsson
A. E. Johnson
B. S. Johnson
Mrs. C. S. Josephsson
Guðm. Lambertsen
G. J. Oleson

**Hamilton, Ont.**
Einar S. Svanbergsson

**Hayland, Man.**
Hávarður Guðmundsson
Sigurður B. Helgason
Geirfinnur Pétursson

**Hnausa, Man.**
Gunnar Helgason
Hildibr. J. Hildibrandsson
Jón B. Snæfeld
Gestur S. Vídal
Mrs. Kristín Vídal
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal

**Hodgson, Man.**
Rögnvaldur S. Vídal

**Holland, Man.**
Guðlaug S. Fredericksson

**Húsavík, Man.**
W. B. Arason

**Innisfail, Alta.**
Jóhann Björnsson

**Keewatin, Ont.**
Guðjón Hermannsson
Jón Pálmason
Mrs. Sig. Sigurðsson
Bjarni Sveinsson
Mrs. Bjarni Sveinsson
Lestrarfélagið "Tilraunin"

**Lundar, Man.**
Sr. Guðmundur Árnason
G. S. Berg
Joe Breckman
Jón Einarsson
Vigfús Guttormsson
Ed. Hallsson
M. Kristjánsson
Ágúst Magnússon
A. V. Olson
Guðmundur Sigurðsson
Mrs. Ásta Sigurðsson
Grímúlfur Sigurðsson.

**Markerville, Alta.**
Mrs. Helga J. Stephanson

**Mozart, Sask.**
Jens Elíasson
Jón Arngrímsson
Þórður Ásgeirsson

**Neveton, Man.**
Gestur Sigurðsson

**New Westminster, B. C.**
Loftur Goodman
S. D. B. Stephansson

**Norwood, Man.**
Magnus Peterson

**Oak View, Man.**
Sigurður Sigfússon

**Piney, Man.**
S. S. Anderson
Mrs. S. S. Anderson
Mrs. B. E. Björnsson
E. E. Einarsson
S. J. Magnússon
Kristinn Norman
P. S. Pétursson
B. G. Thorvaldsson

**Red Deer, Alta.**
Ófeigur Sigurðsson
Mrs. Kristín Sigurðsson

**Reykjavík, Man.**
Árni Björnsson
G. Erlendsson
Mrs. I. Gíslason
Ingim. Ólafsson
A. Paulson

**Riverton, Man.**
F. V. Benediktsson

Marinó Briem
Mrs. G. J. Guttormsson
Jóhannes Helgason
Skúli Hjörleifsson
Pétur Jónsson
Mrs. Óskar Magnússon
Sr. E. J. Melan
Mrs. S. O. Thompson
Sveinn Thorvaldson
Mrs. Kristín Thorvaldson

**Saskatoon, Sask.**
Próf. T. Thorvaldson, D. Sc.

**Siglunes, Man.**
Ásmundur Freeman
Guðmundur Johnson

**Silver Bay, Man.**
Jón Björnsson

**Steep Rock, Man.**
Th. Gíslason
Guðmundur Hjartarson
F. E. Snædal

**Stettler, Alta.**
M. Steinsson

**Vancouver, B. C.**
Ben. B. Bjarnason
Mrs. H. S. Le Messurier
Þórður Kr. Kristjánsson

**Victoria, B. C.**
Christian Sivertz

**Vidir, Man.**
Gunnar Einarsson
Gunnlaugur Hólm
Jónas J. Jónasson

**Vogar, Man.**
Björn Eggertsson
Lestrarfélagið Herðubreið
Jónas Kr. Jónasson
Guðmundur Jónsson

**White Rock, B. C.**
Th. G. Ísdal

**Wilkie, Sask.**
Miss Dóra Davíðsson

**Winnipeg Beach, Man.**
Jón Kernested

**Winnipegosis, Man.**
Guðrún Friðriksson
Jón Geir Gunnarsson

**Winnipeg, Man.**
Dr. Kristján J. Austmann
Dr. Kr. J. Backman,
Miss Sæunn Bjarnadóttir
Dr. Ág. Blöndal, M.D.
Mrs. Jónína Christie
John Christopherson
Séra V. J. Eylands
Mrs. Matth. Fredrickson
Dr. M. B. Halldórsson,
Halldór Johnson
Guðm. F. Jónasson
Björn Líndal
Magnús Markússon
Sigurður W. Melsted
B. E. Olson
Dr. B. H. Olson
Elin G. Sigurðsson
Jón Sigurðsson
Stefanía Sigurðsson
Sigurður Sölvason
Mrs. J. B. Skaptason

J. J. Swanson
G. S. Thorvaldson

3. BANDARÍKIN

**Akra, N. Dak.**
Ásbjörn Sturlaugsson

**Anacortis, Wash.**
Margrét J. Benedictson

**Baltimore, Md.**
Dr. Stefán Einarsson, Johns Hopkins University Library

**Bellingham, Wash.**
Lestrarfélagið "Kári"
E. M. Einarsson

**Blaine, Wash.**
S. A. Anderson
J. J. Bartel
Thor Björnsson
Th. Goodman
Séra H. E. Johnson
Sr. Alb. E. Kristjánsson
Mrs. K. F. Líndal
Mrs. Sigríður Paulson

**Bremerton, Wash.**
Sveinn Árnason

**Cavalier, N. Dak.**
Mrs. Sigríður Galbraithe

**Chicago, Ill.**
Árni Helgason
Jóh. Sveinsson, Theol. St.
C. H. Thordarson, Ph. D.

**Duluth, Minn.**
Chris Johnson
Mrs. Chris Johnson

**Edinburg, N. Dak.**
Margrét Guðmundsson

**Elmhurst, Long Island, N. Y.**
E. Grettir Eggertson

**Garðar, N. Dak.**
Gamalíel Thorleifsson

**Gloucester, Mass.**
Einar Anderson
Jónas B. Johnson

**Grafton, N. D.**
Guðjón Árman
Mrs. S. Eastman

**Grand Forks, N. Dak.**
Próf. Richard Beck, Ph.D.
Próf. G. Björn Björnsson
University Library

**Hallson, N. Dak.**
Árni J. Jóhannson
Árni Magnússon

**Huntington Park, Calif.**
Dr. Paul V. Jameson

**Ivanhoe, Minn.**
Peter H. Foss
Bjarni Guðmundsson

**Minneapolis, Minn.**
Gunnar B. Björnsson
Hjálmar Björnsson

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



TUTTUGASTI ÁRGANGUR, 1938

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi íslendinga í Vesturheimi

1939

Prentað hjá

THE VIKING PRESS LTD.

**LEIÐRÉTTING**

Inn í grein mína, "Framtíð íslenzkrar menningar í Vesturheimi", í síðasta árgangi þessa tímarits, hafa slæðst nokkrar prentvillur. Þessar eru helstar, fyrir utan stafvillur, sem allir geta lesið í málið:

Bls. 10, fyrra dálki, 18. l.: **þýðingunni** les: **þýðingum; nú** les: **ein.**
Bls. 13, fyrra dálki, 13. l.: **botinn** les: **brotinn.**
Bls. 15, fyrra dálki, 21. l.: **1703** les: **1783.**
Bls. 19, fyrra dálki, 29 l.: **einrætt** les: **einsætt.**

Sigurður Nordal

# *Efnisyfirlit*



HIS EXCELLENCY THE RIGHT HONOURABLE
THE LORD TWEEDSMUIR, G.C.M.G., C.H.
GOVERNOR-GENERAL OF CANADA

HEIÐURS VERNDARI ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS
ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI

# Þjóðræknisfélagið 20 ára

Eftir Rögnvald Pétursson

Þá eru nú liðin 20 ár frá stofnun "Þjóðræknisfélags íslendinga í Vesturheimi". Margir þeirra manna er tóku þátt í stofnun félagsins eru nú horfnir af sjónarsviðinu og gengnir undir græna torfu. Tekur nú líka að fyrnast yfir sögu fyrri áranna og þeirra tíma er félagið hóf göngu sína. Það má því virðast viðeigandi, að þessu sinni, að Tímaritið flytji stutt yfirlit yfir þá sögu, og ekki sízt vegna þess, að það hefir ekki áður verið gjört. Fundargjörðir frá undirbúningsfundunum, stofnfundinum og fyrstu tveimur ársþingum félagsins eru til, en þær hafa hvergi verið birtar. Verður við þær stuðst, í því sem hér verður sagt, og svo þær fréttir af starfi félagsins er birtar voru á þeim tíma í blöðunum.

En áður en lengra er haldið, er fyrst að gjöra sér grein fyrir hvernig ástatt var í þjóðfélaginu um þessar mundir, þegar félagið komst á fót; því það hafði áhrif á afstöðu manna gagnvart félagsmyndaninni, á þátttöku þeirra og orðalag og fleira, er fram kom á fundum og í blöðunum.

Flest allir voru í hjarta sínu með stofnun félagsins. íslendingar vildu allir vera og voru, þrátt fyrir allt sem á daginn hafði drifið, en þeir báru ótta og ugg fyrir því, að viðleitni þessi yrði misskilin og að þjóðflokkurinn myndi missa einhvers við, í áliti sínu við hana. Þeir voru ekkert fáir er svo hugsuðu.

Af hverju stafaði sá ótti og hvaðan spratt sú skoðun?

Veraldarófriðurinn hafði staðið yfir á fimta ár. En það átti svo að heita, sem að honum væri lokið, er félagsmyndunin hófst, með vopnahlés samningunum 11. nóv. 1918. En áhrif hans voru ekki strax afrokin sem ekki var heldur von. Þessi fjögur ár höfðu haft djúptæk og lamandi áhrif á hugsunarhátt landsbúa yfirleitt og gjörbreytt honum frá því sem hann var 1913. Ýmiskonar ófrelsi og einræði, frekja og ójöfnuður höfðu gjört innreið sína í þjóðfélagið. Horfin var sú lyfting, það bjartsýni og glaðsinni, framsókn og athafnafrelsi, er áður einkendi félagslífið, og jafnan fylgir landnámsárunum, — en í Vestur-Canada stóðu þau enn yfir, og það fram til stríðs byrjunar.

Í fyrstu, er ófriðurinn brauzt út gátu menn ekki gjört sér grein fyrir, út í hvað væri komið. Blaðafregnum var ekki að treysta, þær létu sem þetta yrði aðeins stundarél — einskonar Heljarslóðarorrusta — er skjótlega tæki enda. Voru menn því ókvíðnir, fyrsta sprettinn, en eftir því sem styrjöldin drógst lengur, og varð ægari og grimmari svarf hún æ meir að canadisku þjóðinni, en þó einkum Vesturlandinu, er af mannfæð sinni, hafði lagt til hlutfallslega fleiri menn í herinn en austurfylkin. Dauðinn seildist utan úr fjarlægðinni, inn á heimilin, hjó skörð í fjölskyldu hópinn, er aldrei urðu fylt.

Glaðværðin fór af. Skoðanir manna breyttust, á öllum sviðum, í allar áttir, gagnvart öllu. Þó munu áhrif hinnar svonefndu "Upplýsinga starfsemi" stjórnarinnar og undirtyllna hennar, blaðanna, hreyfimyndanna, hersöfnunarþjónanna, hinna sjálfkjörnu "föðurlands verndara" og vandlætara, ekki hafa átt minstan þátt í þessari breytingu. Tortryggni var sáð, millum þjóðflokkanna, jafnt innfluttra sem innfæddra, er bygðu landið, en þó einkum gegn þeim er ekki voru af frönskum eða brezkum stofni. — Stjórnin tók sér alræðisvald, gaf út flestar sínar fyrirskipanir utan þings í valdboði ríkisráðs (by order in council). Ekki var leyfilegt opinberlega að finna að gjörðum stjórnarinnar, því það var sama sem að hnekkja framkvæmdum hennar í þarfir stríðsins. Alt varð að miða við stríðið, allir að "vinna fyrir stríðið." Konur sátu með prjóna, á samkomum, við messu, í gestaboðum, í heimhúsum, í þarfir stríðsins.

Frægust samkeppni á prjónlesi meðal Íslendinga mun hafa verið sú er efnt var til út í sýningargarði Winnipeg-bæjar, að afstöðnum ræðuhöldum, Íslendingadaginn 2. ágúst 1917. Send höfðu verið um 40 sokkapör víðsvegar frá, og skyldi dæmt um hver þrenn væri bezt. Eftir að dómur var kveðinn upp, voru verðlaunasokkarnir seldir við uppboð af samkomustjóra, er það ár var, Dr. B. J. Brandson. Var fyrst boðið upp þriðja verðlaunaparið. Hreppti það Árni lögfr. Anderson og galt $5.00 fyrir. Þá var annað verðlaunaparið borið upp og hreppti Þorsteinn S. Borgfjörð byggingameistari, fyrir $6.00. Nú var komið að því ágætasta er hlotið hafði fyrstu verðlaun. Urðu nú margir til að bjóða en að lokum hreppti Arinbj. S. Bardal, útfararstjóri það, fyrir $40.00.

Með margvíslegu móti var unnið fyrir stríðið, en ekkert hrökk til. Alt af þurfti fleiri menn, og er fækka tók frambjóðendum lagði sambandsstjórnin að lokum, seint í ágústmánuði 1917, herskyldu á landið.

Lögunum var andmælt, en ekkert tjáði. Gekk meirihluti andstæðingaflokksins (liberal flokksins) í lið með stjórninni og var mynduð einskonar samsteypustjórn. Nokkrir eldri ráðgjafarnir voru látnir segja af sér, en í þeirra stað skipaðir forkólfar úr hinum nýja sambandsflokki. Ekki kváðust þeir þó hafa skift um skoðun, heldur gefa kost á sér til þessara embætta til þess að fá þjóðina til að halda saman, heima fyrir og á orrustu vellinum.

"Ganga varð hægt um gleðinnar dyr og gá að sér."

Voru þá samin ný kosningalög, er trygðu það að allir yrði kosnir er sóttu undir merkjum samsteypunnar. Öllum er innritaðir voru við herinn, hvort þeir voru staddir heima eða komnir út, var veittur atkvæðisréttur, og mátti skifta atkvæðum þeirra niður á kjörstaði í landinu þar sem stjórnarsinni varð í minnihluta. Stjórnin réði því hversu það var gjört. Ekki var búið að veita konum algengan kosningarétt, en nýju lögin kváðu svo á, að hver kona, er ætti föður, bróður, son eða eiginmann í hernum skyldi hafa atkvæðisrétt. Þá voru atkvæði

tekin af öllum þeim er borgarar höfðu gjörst eftir 1902, er ættaðir voru frá óvinalöndunum eða mæltu á tungu óvinaþjóðanna. Kosningar voru svo látnar fara fram 17. des. s. á. og vann stjórnin frægan sigur! Vopnaðir hermenn voru settir til að gæta dyra við kjörstaðina og sjá um að þeir einir greiddu atkvæði er rétt hefðu til þess. Hefir kosning þessi verið í minnum höfð sem sú óvirðulegasta er haldin hefir verið í Canada.

Í fyrstu höfðu Bandaríkin setið hjá og ekki tekið neinn beinan þátt í stríðinu. Að vísu höfðu margir sjálfboðar þaðan, gengið bæði í canadisku og brezku hersveitirnar, en þátttaka þeirra var ekki af hálfu ríkisins.

Forseta kosning og almennar þingkosningar fóru fram haustið 1916 (7. nóv.). Kom þá í ljós að megn hernaðarandi var farinn að grafa um sig hjá þjóðinni, einkum í stórborgum og iðnaðarbæjum austurríkjanna. Vesturríkin, svo að segja öll, höfðu verið andstæð því að þjóðin hefði nokkur afskifti af ófriðnum. Keppinautur Wilson's forseta, Mr. Hughes, hæstaréttardómari, lét það skiljast að hann myndi ganga í bandalag með samherjum, næði hann kosningu. Fylgjendur Wilson's, tóku sér kjörorð meðan á kosninga baráttunni stóð, "Hann hefir haldið oss út úr stríðinu", (He has kept us out of the war), er álitið er að muni hafa drjúgum stutt vinsældir hans. En strax upp úr nýári, er sátta og miðlunar tilraunir hans voru að engu hafðar breyttist afstaða hans snögglega. Blöðin fóru að ympra á því að Bandaríkjaþjóðin gæti ekki setið hjá. Lét hann að lokum undan þeim er hvöttu til vígaferla. Í febrúar mánuði kallaði hann sendisveit Bandaríkjanna heim frá Berlin en vísaði hinni þýzku úr landi. Þann 6. apríl gefur hann þá skipun til Congress að segja Þjóðverjum stríð á hendur.

Þetta var ekki fyrr gjört en að öll þjóðin var komin í uppnám. Herskylda var lögð á um land alt, og reið það undir Canada að fylgja því fordæmi, eins og síðar varð og um er getið. Hersöfnunar skrifstofur risu upp á hverju strái, í bæjum og borgum og öllum var lagt að skyldu að gefa sig fram, er á herskyldu aldri væri. Var nú "útlendingnum" ætluð þegjandi þörfin ef hann sýndi sig ekki auðsveipan en útlendingar voru þeir allir hvort heldur þeir voru innfæddir eða innfluttir, er eigi báru brezk nöfn eða mæltu á útlenda tungu. Eftirlit þurfti nú að hafa með norður-miðríkjunum og vestur-ríkjunum, er voru bæði, ung og bygð innflytjendum og afkomendur þeirra, frá norður Evrópu. En nógir fengust til þess, "Volunteer Public Representatives", sjálfboðnir fulltrúar þjóðarinnar!

Sú saga var sögð af skáldinu og blaðamanninum norsk-ameríska Peter Strömey (útgefanda tímaritsins "Scandinavia"), er ferðaðist til Noregs, rétt um það leyti sem stríðið brauzt út og sat svo, ófriðarteptur, rúmt ár á Norðurlöndum, að þegar hann kom til baka aftur, flutti hann fyrirlestur á nokkrum stöðum í Norður Dakota um veru sína þar fyrir handan. Lofaði hann lönd og þjóðir að maklegu. Erindi þetta flutti hann í Bismarck, höfuðstað

Dakotaríkis, — meðal annara staða. Er hann lauk máli sínu, reis einn áheyrendanna upp úr sæti, hrósaði erindinu fyrir að það hefði verið fróðlegt en mælti svo: "Við skyldum ætla, að þið "úlendingar", gætuð gjört ykkur enn gleggri grein fyrir því, eftir að hafa víða farið, hve þakklátir þið megið vera fyrir að eiga hér griðland þar sem ykkur er trygður friður, réttindi, frelsi og öryggi, sem þið getið hvergi öðlast annarsstaðar." Peter horfði á manninn um stund og segir svo: "Eg gjöri ráð fyrir að þér séuð fæddur hér í þessu landi." Hinn kvað nei við en sagðist hafa komið hingað fyrir 10 árum, frá brezku eyjunum." Því kallið þér mig þá "útlending", sem fæddur er í Oshkosh, Wisconsin, en sjálfur megið þér heita nýgræðingur hér í landi." mælti Peter.

Þarna talaði einn "Volunteer Public Representative", einn sjálfboðinn fulltrúi þjóðarinnar!

Spenningurinn steig hærra, æsingin og ofsóknartilraunirnar uxu, eftir því sem stríðið drógst meir á langinn og mannfallinu sneri á Bandaríkjaherinn, þó ekki kæmist það í algleyming fyrr en síðla sumars 1918. "Útlendingarnir" urðu bókstaflegir óvinir hins skipulagða þjóðfélags, að dómi þessara "Volunteers", eins og saga þessi sýnir, sem einnig gjörðist í Dakota, en hefði getað gjörst hvar sem var.

Þýzkur prestur, að nafni John Fontano, í smábænum New Salem, var kærður fyrir landráð. Hann var búinn að vera 20 ár í landinu, þjónaði þýzkum lúterskum söfnuði, var kvæntur amerískri konu. Blöðin skýrðu svo frá réttarhaldinu: "Dómur var kveðinn upp 7. ágúst 1918, í kærumáli gegn þýzkum presti er Fontana heitir, af Hon. C. F. Amidon yfirréttar dómara (Federal Court) í Bismarck, N. Dak. Prestur var kærður fyrir að vera óþegnhollur, hafa prédikað á þýzku, og lagt rækt við þýzka menningu. — Prestur var dæmdur í þriggja ára fangelsi. Dómaranum fórust þannig orð:

"Tilgangur dóms þessa sem nú er yfir yður feldur, er ekki eingöngu sá að hegna yður fyrir landráð, heldur líka að gefa öllum yðar líkum til kynna, sem halda fram málefnum **útlendra** þjóða, að nú er sá dagur upprunninn, er öllu þessu verður út að rýma, og niðurbrjóta, og sá dagur er nú kominn, er þér og allir yðar líkar verða að láta yður vaxa í hug og hjarta **sanna og ameríska** sálu.

Þér sóruð þess dýran eið, að þér skylduð veita Bandaríkjunum alla hollustu og hlýðni við landsins lög. Hver var þýðing þessa svardaga? Hver önnur en sú, að þér með einlægni og hreinum huga skylduð láta með yður þróast og vaxa **ameríska sál** í huga og hjarta. — — —

En hafið þér gjört þetta? Þér hafið unnað og haldið fram öllu því, sem þýzkt er. — Þér hafið **prédikað** á þýzku, flutt **bænir yðar** á þýzku, **lesið** þýzkar bækur, og blöð, og **sungið sálma** á þýzkri tungu. Hver einasta hugsun yðar er þýzk, og hver einasta tilfinning hjarta yðar í öll þessi ár (20) er þýzk. Líkami yðar hefir verið hér í ameríku en líf og sál á Þýzkalandi! — — —

Þegar stríði þessu er lokið og frelsi mannfélagsins er aftur orðið óhult í heimi þessum þá kemur

**dagur dómsins.** Þeir borgarar landsins, sem fæddir eru í öðrum löndum og stofnanir allar er með útlendingum standa, verða kvaddar fyrir dómstól þjóðveldis þessa. Sá dagur er fyrir sjónum mínum líkastur hinum mikla dómsdegi. Á þeim degi verður skilnaður gjörður milli sauðanna og hafranna. **Hver einasta stofnun,** sem, hefir fengist við að halda útlendingum við sem útlendingum í landinu, **verður að hverfa** frá þessu starfi eður **hætta að vera til.** Hér þarf djúpt að skera en það verður gjört. — — —

**Útlendar kirkjur og útlend blöð** verða aðal málin, sem út verður gjört um, á þessum degi dómsins. Rétturinn til þessara hluta verður aðeins veittur **um stundarsakir.** — Þá verður að endurskoða og rannsaka til hlítar öll þessi **útlendu kirkjufélög.** Og **ekkert prentfrelsi getur** um óákveðinn tíma **verndað blöð** og rit, á útlendum tungum, í Bandaríkjunum. Ekkert frelsi getur verndað nokkra kirkju eður blað, sem ekki gjörir sér alvarlega far um að láta tímann verða sem skemstan sem þeirra þurfi með."

— — — — — —

Svo mörg voru þessi orð. En ekki munu þau hafa verið þau einu, af þessu tagi, sem úti voru látin. Norðmenn og Svíar sættu átölum fyrir að guðsþjónustur þeirra færu fram, á móðurmáli þeirra. Það áttu helzt engir að ávarpa Guð nema á ensku. Að vera "tvíheitinn 'amerikani", bera samtengt þjóðernis heiti, (hyphenated American), eins og dansk-amerikanskur, íslenzk-amerikanskur o. s. frv., gekk næst því að vera varasamur maður, í áliti þeirra er töldu sig vera "hundrað prósent" Ameríkana, hinna "sjálfkjörnu þjóðarfulltrúa". Það varð að hafa gát á þeim. Siðferðisinnræti þeirra var af lægra tagi. Slagorðið var: **"Eitt land, ein tunga, ein þjóð, ein lög".**

Í sjálfu sér var það heimskulega tilfundið. Landið var eitt, lögin ein, þjóðin sameinuð. En var það þá tungan, hún var líka ein, en samhliða henni talaðar flestar Norðurálfutungurnar og gat ekki hjá því farið, því fram á stríðsbyrjun hélzt óslitinn innflutningsstraumur inn til beggja ríkjanna, frá flestum þjóðlöndum Norðurálfunnar. Slagorði þessu gat því eiginlega ekki verið beint að öðru en hinum "útlendu" tungum er þurkaðar skyldu út, meðan að löndin lágu undir heraganum — að "útlendingunum," er svo aðeins gátu orðið "hundrað prósent" ameríkanar, að þeir afklæddust þjóðerni sínu og týndu tungu sinni, á svipstundu.

Af tilslökun við þessar kröfur, voru svo guðsþjónustur í kirkjunum færðar yfir á enska tungu, löngu fyrir tímann, því eldri kynslóðin, — upphaflegu innfltyjendurnir — hafði hennar ekki not. Fór þá kirkjulífið víða á ringulreið. Þegar ekki var eftir annað en sértrúarkenningarnar, til að halda fólki saman, losnaði um tengslin og djúp var staðfest milli hinna eldri og yngri er hefndi sín geypilega síðar. Þegar búið var að varpa frá sér tungunni, er varðveitti lífsskoðanir og siðferðisreynslu þjóðabrotanna var andanum glatað. Lögmáls kenningin ein sömul, varð sára innihaldslítil og aðhaldslaus.

öfgar þessar risu naumast jafnhátt í Canda eins og sunnan landamæranna. Þó munu þær hafa verkað á skoðanir og framkvæmdir þeirra manna er fyrir málum stóðu, svo að búast mátti við olnbogaskotum, jafnvel frá hæstu stöðum, er sýna áttu hið skilyrðislausa ákvörðunar-vald yfirþjóðarinnar í landinu. Saga ein gjörðist á þessum tíma, sem ekki er úr minnum liðin:

Um miðsumarleytið, 25. júlí 1918, var send sveit ungra manna, sunnan frá Bandaríkjum norður til Winnipeg. Áttu menn þessir að sigla frá Austur-Canada á orrustu völl, en koma við í helztu borgum landsins á austur leiðinni. Undirbúningur var mikill í Winnipeg til þess að taka á móti þessum ungu og myndarlegu gestum. Áhorfendapallur var reistur á Þinghúsflötinni, en þar á vellinum áttu aðkomumenn að fylkja liði, ganga umhverfis pallinn og heilsa á hermanna vísu, fylkisstjóra, stjórnarráðherrunum, og öðrum er sæti áttu á pallinum. Prestum, læknum, lögfræðingum og embættismönnum bæjarins, var boðið að eiga þarna sæti, meðan á athöfninni stóð. Heilsaði fylkisstjóri, Sir J. A. M. Aikins, gestum og mælti til þeirra nokkur orð, jafn ört og þeir gengu til sæta sinna. Íslenzku prestarnir voru þarna flestir, og mun Hon. T. H. Johnson, er þá var dómsmálaráðherra hafa séð um að þeir væri ekki eftirskildir, er boðsbréfum var útbýtt. Er séra Rúnólfur Marteinsson steig upp á pallinn, heilsar fylkisstjóri honum og segir: "Þér eruð prestur, er ekki svo?, en látum oss sjá, hvaða kirkju heyrið þér til?" "Lútersku kirkjunni," svarar séra Rúnólfur vingjarnlega. "Ó já, þér eruð Þýzku trúarinnar", segir fylkisstjóri, — sjálfur var hann meþódisti! — — —

Þannig var þá mannlífið stemt þegar Þjóðræknisfélagið var stofnað.

II.

Hugmynd sú, að stofna allsherjar félagsskap meðal Íslendinga í Ameríku, var ekki ný. Menn höfðu lengi framan af árum naumast um annað hugsað en að koma á fót einhverskonar félagsskap, er orðið gæti til þess að halda Íslendingum saman, svo að þeir tvístruðust ekki út um álfuna eða týndust. Þannig varð "Framfarafélagið" til í Milwaukee 1874, "Íslendingafélagið" í Winnipeg 1877 (6. sept.), og ótal fleiri félög, er risu upp þar sem einhver hópur Íslendinga var saman kominn, en féllu svo að segja á sömu svipan aftur, og urðu svo fremur til sundrungar, en sameiningar. Orsökin fyrir þessu var sú, að í byrjun var ekki leitað almennra samtaka áður en farið var á stað, heldur var hrapað að félagsstofnuninni, án nauðsynlegs undirbúnings eða umhugsunar, er varð svo von bráðar að engu.

Það var því sízt að furða, eins og hugsunarhátturinn var úti í þjóðfélaginu, þó mönnum segðist þungt hugur um að gjöra nú enn nýja tilraun til að stofna þvílíkan félagsskap. Nóg var komið og tíminn óheppilega valinn að sumir héldu. Samt fundu allir til þarfarinnar, því óðum þyngdist andrúmsloftið, sem á leið svo að sjálfákvörðun og sjálf-

stæðisþrá einstaklinganna varð naumast líft við að búa.

Fundur var boðaður að heimili Árna Eggertsonar 10. jan. 1917, til þess að ræða um stofnun íslenzks Þjóðræknisfélags í Winnipeg. — Fundurinn var ekki alment auglýstur svo þeir komu aðeins sem fundarboðið fengu. Fundarstjóri var kosinn Árni Eggertson og skrifari Friðrik Sveinsson. Skýrði fundarstjóri tilefni fundarins. Til máls tóku Jón J. Bíldfell, séra Runólfur Marteinsson, séra Björn B. Jónsson, Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, séra Friðrik J. Bergmann, Jóhannes Sigurðsson og fl. Allir voru ræðumenn því meðmæltir, að stofnað yrði íslendingafélag, er gæfi út tímarit málum sínum til stuðnings. Kosin var 15 manna nefnd til að undirbúa almennan fund (**Hkr. 18. jan. 1917**), en fundur sá var aldrei boðaður, og féll svo málið niður að því sinni.

Leið svo hátt á annað ár að ekkert var gjört. En þá var fundur boðaður í samkomuhúsi Skjaldborgar safnaðar 30. sept. 1918, fyrir forgöngu Sigurbjörns Sigurjónssonar prentara, Thórðar gullsmiðs Jónssonar, Dr. Sig. Júl. Jóhannessonar og einhverra fleiri er ekki eru nafngreindir í fundarboðinu, (**Voröld, 24. sept. 1918**). Fundurinn var fámennur og hafði ekki verið vel auglýstur. Frá gjörðum fundarins skýrir fundarskrifarinn á þessa leið: :

"Fundur kallaður til að ræða um stofnun Þjóðræknisfélags, haldinn í samkomuhúsinu Skjaldborg, 30. sept. 1918.

Forseti fundarins kosinn Rev. R. Marteinsson.

Skrifari fundarins kosinn S. D. B. Stephansson.

Forseti bað þá er boðað hefðu fundinn að taka til máls, og gefa viðstöddum hugmynd um hvað fyrir þeim vakti.

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skýrði frá að hann væri einn af þeim er kallað hefðu fundinn. Taldi ástæðuna þá að nú virtist vera kominn tími til að mynda hér íslenzkt Þjóðræknisfélag, — sem nokkrum sinnum hefði verið talað um hér í bæ. Væri slík félagshugmynd nauðsynleg af mörgum ástæðum, meðal annars gæti slíkt félag átt byggingu, þar æfinlega mætti taka á móti íslenzkum gestum er í bæinn kæmu.— hafa bókasafn, listasafn, fundarsali, o. s. frv. Gat þess að allareiðu stæði til boða frá einum velunnara þessarar hreyfingar allálitlegt bókasafn.

Tillaga, Sig. Vilhjálmssonar, Sig. Júl. Jóhannessonar, að kosin sé 9 manna nefnd til að hrinda málinu áfram.

Sigurbj. Sigurjónsson gat þess að fyrir 2 árum hefði verið haldinn fundur í húsi Árna Eggertsonar, til að ræða einmitt um sama mál. 9 manna nefnd hefði þá verið kosin til að hafa framkvæmdir, og á þeim eina fundi sem nefndin hafði haldið síðan, hefði henni komið saman um að hreyfa ekki við málinu meðan stríðið stæði yfir.

Helgi Sigurðsson taldi enga ástæðu að bíða með myndun félagsins vegna stríðsins.

Eiríkur Þorbergsson var eindregið með uppástungunni.

Mrs. G. J. Goodmundson vildi láta stofna félagið strax. Lagði til að 15 manna nefnd væri kosin til að

vinna með gömlu nefndinni er hr. Sigurjónsson gat um.

G. J. Goodmundson vildi vita hvert hin umrædda nefnd hefði ekki verið sjálfkosin, — sá enga ástæðu fyrir því að hún hefði ekki starfað.

Friðrik Sveinsson kvaðst verið hafa ritari hinnar umræddu nefndar. Sagði nefndina hafa lagt málið yfir þar til eftir stríðslok, vegna þess ímigusts sem nú væri á meðal hérlendra, á félags-myndunum svo kallaðra útlendinga.

J. J. Bíldfell kvað nauðsyn á myndun þjóðræknisfélags á meðal Vestur-íslendinga, — margt mætti gjöra með öflugum samtökum. En kvaðst algjörlega á móti slíkri hreyfingu á meðan stríðið stæði yfir. Allar slíkar hreyfingar líklegar til að verða hraparlega misskildar af hinni canadisku þjóð.

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, Sumarliði Sveinsson, tillaga. Að þessum fundi sé frestað í 2 vikur, og sé næsti fundur vel auglýstur.

Breytingar tillaga, K. J. Austman, Vald. Magnússon. Að þessu máli sé frestað til annars ágústs næstk. og þá rætt á almennum fundi.

Breytingar tillaga við breytingar tillögu, Sigurbj. Sigurjónsson, S. D. B. Stephansson. Að málinu sé frestað þar til einum mánuði eftir að friður er samin.

Aðal tillagan, að fresta fundi í tvær vikur, var samþykt. Þeir Th. Johnson, Sigurbjörn Sigurjónsson og Sumarliði Sveinsson voru kosnir í nefnd til að gjöra nauðsynlegar ráðstafanir fyrir næsta fundi."

Svo að segja strax eftir að fundi var slitið var lagt á samkomubann í bænum; skólum og kirkjum var lokað, af heilbrigðisráði bæjarins, vegna hinnar skæðu drepsóttar, "spönsku veikinnar", er fluttist til bæjarins um það leyti með hersveitunum, er sendar voru heim. Féll fólk unnvörpum. Gekk þá ekki á öðru en jarðarförum. Það voru sigurlaunin!

Næsti fundur var því ekki boðaður fyr en 7. jan. 1919. Undir fundarboðið rituðu Thórður Johnson og Sigurbjörn Sigurjónsson. Meðan á fundarbanninu stóð hélt Sigurbjörn Sigurjónsson málinu vakandi með ritgjörðum í "Heimskringlu" (hann var þá prentari við blaðið), er hann nefndi **"Ljúfar raddir"**. Skoraði hann á almenning að láta vilja sinn í ljósi og birti kafla úr bréfum er honum bárust víðsvegar að.

Leið svo fram til fundarins. — Komið var saman á þeim tíma sem tiltekinn var í fundarborðinu (7. janúar), og var fjölmenni. Frá fundinum skýrir fundarskrifarinn á þessa leið:

"Fundur kallaður til að ræða um stofnun þjóðræknisfélags, haldinn í Good Templars Hall, 7. jan. 1919.

Forseti fundarins kosin Th. Johnson.

Ritari fundarins kosin S. D. B. Stephansson

Sigurbj. Sigurjónsson skýrði frá að fundur hefði verið haldinn í Samkomuhúsinu Skjaldborg, 30. sept. s. l., til að ræða um sama mál, en ekkert verið útkljáð þar, og þriggja manna nefnd kosin til að stofna til annars fundar. (Þessir menn voru þeir Th. Johnson, Sigurbj. Sigurjónsson og Sumarliði Sveinsson.)

Vegna fundarbanns þess er var sett í bænum svo lengi, hefði ekki verið hægt að halda fund fyr en nú.

Arngr. Johnson taldi þörf á að kynna hérlendu fólki íslenzkar bókmentir með því að þýða það fegursta og bezta á enska tungu. Var meðmæltur stofnun íslenzks félags er stjórnað væri í líkingu við hin alkunnu bræðra og líknarfélög þessa lands.

Séra Rögnv. Pétursson, vildi að stofnað væri alsherjar Þjóðræknisfélag íslendinga. Það væri nauðvörn. En þýðingarlaust væri að fara af stað nema samvinna fengist við bygðirnar. Samtökin yrði að vera einhuga og almenn, annars væri viðleitnin dauðadæmd. Afstaðan væri sú, vér yrðum annaðhvort að fljóta eða sökkva.

J. J. Bíldfell var áhugamál að félagið væri myndað. Vildi að það gæti haft deildir í öllum bygðum og bæjum þar íslendingar búa. Vildi ekki stofnsetja félag hér strax heldur fyrst leita eftir hluttöku bygðanna og vera í samráðum með þeim þá til stofunar kæmi. Lagði til að nefnd væri kosin á þessum fundi til þess að semja áskorun til ýmsra málsmetandi manna og þjóðræknisvina út um bygðir íslendinga bæði í Canada og Bandaríkjunum um að þeir kölluðu fundi hver í sínu héraði, helst á einhverjum einum tilteknum degi, og á þeim fundi kysu erindsreka er svo mættu á tilteknum tíma á fundi hér í bænum. Á þeim fundi skyldi svo undirstaðan lögð undir félagsmyndunina.

Ásm. Jóhannsson var eindregið með að myndað væri Þjóðræknisfélag þrátt fyrir það að hann sæi margar torfærur á vegi. Taldi mesta þörf fyrir félagið hér í bæ, því hér myndi íslenzkan eiga skemstan aldur, ef dæma ætti eftir núverandi ástandi meðal íslendinga hér. Var með uppástungu Bíldfells um að kjósa hér nefnd til að reyna að ná samvinnu við bygðirnar. Vildi að þá nefnd skipuðu 30 manns að minsta kosti og þeir valdir úr öllum hinum mörgu smáfélögum og flokkum meðal íslendinga hér í bæ. — Uppást. maður gaf eftir að í nefndina skyldi kjósa 30 manns, og var tillagan þannig studd af Ásm. Jóhannssyni.

Lárus Guðmundsson vildi strax stofna félagið, sá ekkert grætt við að bíða eftir þátttöku bygðanna. Taldi íslenzkunni borgið hér í bæ ef sterkur íslenzkur söfnuður tæki að sér kenslu í íslenzku á sunnudagaskóla. Aðrir vegir til viðhalds málinu myndu reynast lítils virði.

Séra G. Árnason taldi ótækt að bíða eftir undirtektum bygðanna í þessu máli. Þörfin væri brýnust hér, og hér ætti að vera miðstöð þjóðræknislegrar hreyfingar, helst stofnsett skrifstofa sem ætíð væri opin og starfandi að viðhaldi íslenzkrar tungu og íslenzkrar menningar, vildi að ársgjöld í félagið væru höfð svo lág, að engin þyrfti að fráfælast þessvegna.

Séra R. Marteinsson vildi að fundurinn ræddi meira um verkefni félagsins. Féllst á tillöguna með að leita undirtekta bygðanna, því sú tilhögun á stofnun félagsins væri líklegri til góðs og varanlegs árangurs. Sagði í sumum bygðum vera mikinn áhuga fyrir viðhaldi íslenzks þjóðernis. Tók fram að hann teldi

sjálfsagt að félagið væri ekki stofnað í neinni óvináttu við hið canadiska þjóðfélag. Taldi eitt aðal hlutverk félagsins ætti að vera útgáfa íslenzks tímarits og bóka. Sá ekki þörf fyrir svo mannmarga nefnd, sem tillagan fór fram á.

Séra Rögnv. Pétursson taldi enga minni þörf á framtakssemi til að viðhalda íslenzkri tungu úti í bygðunum, þar væri málið hverfandi á meðal uppvaxandi kynslóða, engu síður en hér í bæ. Var meðmæltur uppást. manni með leitun á þátttöku bygðanna nú strax.

J. J. Bíldfell sagði að með myndun þessa félags væru Íslendingar ekki að brjóta í bága við þjóðræknisskyldur sínar gagnvart Canada, þvert á móti. Vér ættum vora sérstöku menningu, og af henni bæri oss að miðla hinni ungu canadisku þjóð, sem nú væri að eins í myndun. Án samtaka, yrði ekkert úr íslenzku menningunni. Vér hyrfum bara sem dropi í sjóinn, og koma vor til þessa lands yrði senn gleymd.

Sigfús Anderson taldi fásinnu að vera nokkuð að reyna að tefja fyrir hvarfi íslenzkunnar hér. Var eindregið á móti þessari fyrirhöfn.

Jón Runólfsson var sammála næst síðasta ræðumanni. Gat þess að vér værum jafnvel ennþá nefndir hér "útlendingar" í óvirðingarskyni, vildi stemma stigu fyrir slíku með samtökum.

Sig. Júl. Jóhanensson vildi strax hleypa félaginu af stokkunum,, treystandi á góðar undirtektir bygðanna. Taldi óþarfi að taka fram að myndan félagsins skyldi ekkert koma í bága við vorar borgaralegu skyldur gagnvart Canada. — Slíkt væri sjálfsagt. Ef nefndin yrði skipuð samkvæmt tillögunni þá riði á, að í henni ættu sæti menn úr öllum félögum og "klikkum" Íslendinga hér í bæ.

Jón Hjaltlín kom með svolátandi breytingartillögu: "Fundurinn lýsir því yfir að félagið skuli stofnað, og nefnd sé kosin á þessum fundi til að semja grundvallar-reglur félagsins, sem svo skuli bera upp til samþyktar á næsta fundi." Þessi tillaga studd af Lárusi Guðmundssyni. — Borin upp og feld.

Tillaga Bíldfells - Jóhannssonar samþykt.

Nokkrar umræður urðu um hvernig kjósa skyldi í nefndina. Ásm. P. Jóhannsson las upp nöfn 24 kvenna og karla, er tilheyrðu ýmsum félögum hér í bæ. Slíkur nafnalisti til stuðnings við valið í nefndina? Loks gjörði séra Rögnv. Pétursson tillögu, studda af B. Magnússyni að forseti tilnefni 5 manna nefnd að sér sjálfum meðtöldum, til að velja menn og konur í 30 manna nefndina. Samþykt.

Forseti útnefndi þá: Sigurbj. Sigurjónsson, Einar P. Jónsson, Ásm. P. Jóhannsson, séra Rögnv. Pétursson.

Þessi nefnd tók strax til starfa og valdi eftirfylgjandi 30 menn og konur í nefnd, samkvæmt tillögu J. J. Bíldfells, áður en gengið var af fundi: Séra Runólf Marteinsson, Jón J. Bíldfell, O. T. Johnson, Sig. Júl. Jóhannesson, O. S. Thorgeirsson séra Björn B. Jónsson, Magnús Paulson, Sigurbjörn Sigurjónsson, Hjálmar A. Bergman, Líndal Hallgrímsson, séra Rögnv. Pétursson, Thorstein S. Borgfjörð, Kristján J.

Austmann, Gunnl. Jóhannsson, Hjálmar Gíslason, séra Guðm. Árnason, Dr. Jón Árnason, Einar Pál Jónsson, Mrs. F. Johnson, Mrs. J. Gottskálkson, Mrs. Ingibjörgu Goodmundson, Mrs. Th. Oddsson, Mrs. J. B. Skaptason, Mrs. T. H. Johnson, Thórð Johnson, Friðrik Sveinsson, S. D. B. Stephansson, Ásm. P. Jóhannsson, Hon. Thomas H. Johnson, Dr. B. J. Brandson.

Fundi slitið."

Þrjátíu manna nefndin tók þegar til starfa. Fyrsti fundur hennar var haldinn í Jóns Bjarnasonar skóla 13. jan, þar sem hún skifti með sér verkum. Þrjár nefndir voru kosnar: 1. **Ávarpsnefnd**, er semja skyldi almenna áskorun til Íslendinga um að stofna allsherjar félag til verndar og viðhalds íslenzku þjóðerni í Ameríku. Í nefndina voru kosnir: Rögnv. Pétursson, Jón J. Bíldfell og Sigurbjörn Sigurjónsson. 2. **Fyrirspurnar nefnd**, er leita skyldi samvinnu leiðandi manna í bygðarlögunum. Í nefnd þá voru kosnir: S. D. B. Stephansson, O. S. Thorgeirsson, frú Guðrún Johnson. 3. **Uppkasts-nefnd**, að stefnuskrá félagsins kosnir: Guðm. Árnason, Runólfur Marteinsson, O. T. Johnson, Th. S. Borgfjörð, Sig. Júl. Jóhannesson. Skyldu nefndir þessar leggja fram tillögur sínar fyrir aðalnefnd áður en birtar væru. **Ávarpsnefndin** og **Fyrirspurnanefndin** luku bráðlega starfi sínu, en **Uppkastsnefndinni** varð sein unnara, því upp á mörgu var stungið sem stefnuskrá félagsins. Var "álit" hennar lagt fyrir aðalnefndar fund nokkrum sinnum áður en frá því var gengið, eins og það ber með sér. Að lokum var það samþykt með ýmsum breytingum og birt í blöðunum (Voröld, 25. febr., Hkr. 26. marz, með þeirri skýringu, að óskað hefði verið eftir að það yrði ekki birt fyrr en aðalnefndin hefði gengið frá því).

Við "Ávarpið" var lokið 27. jan., og það afgreitt af aðalnefndinni og sent út um bygðir, (birt í Hkr. 12. febr., Lögb. 13. febr). Var það á þessa leið:

**Ávarp til Íslendinga í Vesturheimi**

"Oft og mikið hefir verið talað um nauðsynina á að viðhalda þjóðerni voru Íslendinga hér í álfu, og er það skiljanlegt, — þar ræðir um dýran fjársjóð er vér, menn og konur, útflutt frá Íslandi, eigum: menningu þjóðar vorrar, þúsund ára gamla og margreynda, — það veganesti sem er aflvaki allra framkvæmda vorra og manndóms í þessu nýja kjörlandi voru. Þenna fjársjóð vitum vér að vér eigum og þenna fjársjóð viljum vér varðveita, oss til uppbyggingar og þjóðfélaginu, sem hér er í myndun, til þroskunar. Hann er arfurinn er vér þráum að geta látið hreinan og ómengaðan niðjum vorum í þessu land í té, þegar vér leggjumst til hvíldar; þeim til uppbyggingar og landi þessu og lýð til blessunar. Vér viljum afhenda þeim tunguna — málið, "mjúkt sem gull og hvelt sem stál," er í sér felur hugsanaheim hins íslenzka þjóðlífs, frá hinni elztu tíð og niður til vorra daga; er lýsir hinum norrænu hugsunum, hinu norræna einstaklings eðli, hinum norræna skilningi á kröfum og tilgangi mannlífsins, sem, að vorum dómi, er fullkomnari

og æðri en skilningur sumra annara þjóða. Vér viljum að þeim sé greiður gangur að bókmentum þjóðar vorrar, sem, þó lítil sé, er eina þjóðin í heimi er, á lifandi máli, á sígildar fornaldar bókmentir, sem af fræðimönnum eru taldar jafnsnjallar, ef ekki snjallari, því bezta í bókmentum fornaldarinnar. Þetta meðal annars, þráum vér að geti orðið ævarandi eign niðja vorra í álfu þessari og hjartfólginn fjársjóður, er þeir svo fái auðgað með hið vaxandi þjóðlíf, svo að það megi verða þróttmeira og fegurra en ella.

Nú byggir land þetta, sem kunnugt er, fólk úr öllum álfum heims og hefir hvert um sig með sér flutt, þá siðu, þær hugsjónir, þá tungu, er tíðkað hefir verið í heimalandi þess. Standa menn hér því á mjög misjöfnu menningarstigi, þó nábúar gjörist eftir að hingað kemur. Frá borgaralegu sjónarmiði, er þjóðin ein og óskift. En tími sá er enn eigi kominn að fólk þetta hafi náð því takmarki að mynda eina þjóðernislega heild, er öðlast hafi sérskilin og ákveðin andleg þjóðareinkenni, þó, með framtíðinni, að eftir því sé vonast, að svo megi verða. Gætir því margbreytilegra skoðana, á öllum þeim málum er varða framtíðina og áhrif geta haft til að efla eða hnekkja menningu hinnar uppvaxandi þjóðar, á komandi tíð, og ræður í því efni á hverjum stað fyrir sig, að mjög miklu leyti, hver þjóðflokkurinn er öflugastur að fólksfjölda eður efnahag. Nú er það hin helgasta skylda gagnvart þessu ríki og hinni uppvaxandi þjóð, að þeir, er að arfi hafa tekið göfugar hugsjónir og haldgóða menningu og hingað hafa flutt, ávaxti þenna arf sinn og verndi þessar hugsjónir sínar frá glötun. Nú hagar svo til hjá oss, að vér erum búsettir meðal allra þessara þjóðflokka og hefir þegar komið í ljós, að straumar þessara áhrifa eru mjög mishollir voru andlega heilbrigði, og hafa því orðið þess valdandi, að vér höfum í sumum efnum verndað miður en skyldi hinn þjóðernislega arf vorn, og það gengið svo langt, að jafnvel hugsjóna lífi voru og tungu hefir staðið háski af. Áhrifin hafa eigi fremur borist oss, frá þeim þjóðflokkum, er ofar standa í menningarlegu tilliti en vér, en hinum, sem þar standa neðar, og veldur því afstaða bygðarlaga vorra og nábýli við hina ýmsu þjóðflokka. Þessvegna getur svo farið, ef vér eigi gjörum neitt til þess að varðveita þjóðerni vort í framtíðinni, að í stað þess að taka framförum andlega og líkamlega, fari oss svo aftur, að af því súpum vér og niðjar vorir um langan aldur.

Það er þessvegna skoðun vor að Íslendingar hér í álfu ættu að bindast samtökum sín á meðal, til að mynda félagsskap til viðhalds tungu sinni og þjóðerni, er og jafnframt hefði það að markmiði að efla sæmd þjóðar vorrar og virðingu, innbyrðis og út á við, í öllum efnum, eftir því sem ástæður leyfðu; er orðið gæti hvöt mentamönnum vorum í námi þeirra og vísindaiðkunum, rithöfundum vorum styrkur í verki þeirra og frumkvöðull að því, að kynna afkomendum vorum og meðborgurum sögu vora og bókmentir að fornu og nýju, með fyrirlestra haldi eða útgáfu þar til kjörinna

rita. Auk þess gæti innifalist í verkefni félagsins:

(a) Að stuðla að því, að íslenzk tunga verði kend við sem flesta háskóla hér í álfu, er Íslendingar sækja, og að komið verði á fót verðlauna sjóðum í norrænum fræðum við þær stofnanir,

(b) að stuðla að samvinnu og samhygð milli Íslendinga hér í álfu og þjóðarinnar heim,

(c) að efla þau framfara fyrirtæki, er orðið gætu Íslendingum til sæmdar, hér sem annarsstaðar.

Þessi tillaga vor um almenna félagsmyndun er ekki ný. Miklu fremur má með sanni segja að hún sé jafngömul landnámi voru í Vesturheimi. Hafa á ýmsum tímum og vel flestum stöðum, þar sem Íslendingar búa, komið fram svipaðar tillögur og jafnvel tilraunir verið gjörðar að stofna þvílíkan félagsskap. — Hefir þetta mál því verið eitt hið mesta og almennasta áhugamál vort, þótt eigi hafi verið gjörðar tilraunir til svo almennra framkvæmda í því, sem nú er farið fram á, og æskilegt hefði verið. En nú, á síðustu tímum, hefir það fengið nýjan og aukinn þrótt og áhugi vaknað fyrir því meiri en nokkru sinni áður. Til þess liggja margar orsakir, sem öllum eru ljósar og eigi gjörist þörf að skýra frá. Hér í Winnipeg hefir þegar nokkur byrjun verið gjörð. Fjölmennur fundur var haldinn hér 7 þ. m. og voru þar allir einhuga með því, að æskilegt væri að komið yrði á stofn, allsherjar þjóðernisfélagi meðal Íslendinga hér í álfu, og var þar samþykt svolátandi tillaga:

"Að kosin sé 30 manna nefnd, er vinna skuli að undirbúningi þessarar fyrirhuguðu félagsstofnunar fram til almenns fundar. Skal nefndin semja ávarp, er sendast skal mönnum í hinum ýmsu bygðarlögum vorum hér í álfu, og með því sé á þá skorað að gangast fyrir fundarhaldi, hver í sinni bygð, og með fundar atkvæði leita álits þeirra, sem viðstaddir eru, um stofnun þjóðernisfélags meðal Íslendinga í Vesturheimi. Falli samþyktir með, skulu kosnir fulltrúar á fundum þessum, er mæta skulu á almennum fundum í Winnipeg, er ræða skal um stofnun, stefnu og fyrirkomulag þessa félags, og skal sá almenni fundur vera haldinn svo fljótt, sem ástæður leyfa."

Nefndin, sem kosin var, hefir þegar tekið til starfa. Formaður hennar er séra Runólfur Marteinsson, hr. Ásm. P. Jóhannsson féhirðir, séra Guðm. Árnason ritari. Að tilhlutan hennar og samkvæmt ofangreindri tillögu er ávarp þetta samið, og eru það tilmæli nefndarinnar, að þeir menn, er veita kunna því móttöku, gangist fyrir fundarhöldum á þann hátt, er um ræðir í tillögunni, og tilkynni svo ritara eða formanni hér úrslit þeirra funda".

Dagsett í Winnipeg, Manitoba, 27. janúar 1919.

Runólfur Marteinsson,, Jón J. Bíldfell, O. T. Johnson, Sig. Júl. Jóhannesson O. S. Thorgeirsson, Björn B. Jónsson, Magnús Paulson, Sigur-

